# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

13. árg. WINNIPEG, NÓVEMBER 1898. Nr. 9.

## Sálmr

eftir séra VALDEMAR BRIEM út af Matt. 25, 34—40.

(Lag: Hvad hefir þú, minn hjartkær Jesú, brotid?)

1. Við sína hjörð á dómsins mikla degi
vor dýrðarmildi konungrinn segi:
„Míns föður ríkis komið nú að njóta
og náð að hljóta.“

2. „Eg svangr var; af góðvild þú mig gladdir,
af gnœgtum litlum hungraðan mig saddir.
Af alls góðs nœgtum æ því skalt þig seðja,
og allt þig gleðja.“

3. „Eg þyrstr var og kenndi sárra kvala;
þá komst þú til að hressa mig og svala.
Því æ skalt þú af lífsins lindum teyga
og lífið eiga.“

4. „Eg gestr var, og hvergi hœli átti;
þú hýstir mig, svo vært eg hvílast mátti.
Þú átt hjá mér um eilífð gisting vísa;
þig eg skal hýsa.“

5. „Eg nakinn var, og kulda bitrs kenndi;
þú klæðin gafst mér nóg af örri hendi.

Í réttlætisins skrúðann himinskæra
því skal þig fœra".

6. „Eg sjúkr var og sárri haldinn pínu;
þá settist þú hjá kvalarúmi mínu.
Um eilífð þig ei mein því skulu mœða;
þau mun eg grœða."

7. „Eg fangi var og föstum bundinn dróma;
með frelsisins þá komstu líknardóma.
Því eilíflega frjáls á lífsins landi
þinn lifir andi."

8. „Það, sem þú gjörir minnstu brœðrum mínum,
það mér er gjört af sönnum kærleik þínum.
Og umbun þess um eilífð skaltu hljóta
og alls góðs njóta."

## Minning reformazíónarinnar og missíónarskyldan.

Dagrinn, sem við er knýtt endrminningin um upphaf hinnar lútersku reformazíónar, 31. Október, er nýliðinn hjá enn þá einu sinni á æfi vorri. Og ef vel væri, ætti sá dagr ætinlega að vera öllum lýð lútersku kirkjunnar ógleymanlegr merkisdagr og minna allt það fólk á blessan þá hina miklu og margföldu, sem vér njótum eða eigum kost á að njóta út af þeim mikla atburði í mannkynssögunni, reformazíóninni. Í kirkjunni á Íslandi er reformazíónardeginum nálega alls engin eftirtekt veitt. En hér í Vestrheimi og víðasthvar í þeim löndum, þar sem lúterska kirkjan á heima, er þessa sérstaka tímamarks á árinu vandlega gætt, almenn kirkjuleg hátíðarhöld um það leyti árs, sem skiljanlega styðja mjög að því, að safnaðalýðrinn lærir að meta og þakka fyrir sitt eigið heimili í hinni almennu kristnu kirkju. Og vér lúterskir Íslendingar í Vestrheimi erum í seinni tíð ofr lítið farnir að fylgjast með trúarbrœðrum vorum af öðrum þjóðflokkum að því, er snertir þennan fagra og uppbyggilega sið. Í flestum söfnuðum kirkjufélagsins, sem njóta reglubundinnar prestsþjónustu,nú árlega haldnar sérstakar guðsþjónustur til endr-

minningar um reformazíónina, oftast þó ekki seinasta daginn í Október, nema því að eins, að hann beri upp á sunnudag, heldr þann sunnudag, sem reformazíónardeginum er næstr annaðhvort á undan eða eftir. Og samkvæmt bendingum, er komið hafa fram á kirkjuþingunum, er það farið að tíðkast, að söfnuðirnir við þær guðsþjónustur beri fram dálítið offr, sem menn þó heldr vilja kalla „samskot", til handa missíónarsjóði kirkjufélagsins. Sá siðr á mjög vel við, því fyrir hann glœðist hjá almenningi safnaðanna meðvitundin um hina guðlegu köllun kirkjunnar til þess samfara hinu andlega starfi heima fyrir í söfnuði hverjum út af fyrir sig að vinna að útbreiðslu guðs ríkis á öðrum stöðum.

Þegar lúterska kirkjan man eftir því, hvað mikið henni hefir verið veitt af drottni, hvað mikið af andlegum auði hún á í eigu sinni fram yfir allar aðrar kristnar kirkjudeildir—hreinna guðs orð, meira af sönnu frelsi—, þá á henni ekki að geta gleymzt, hvað mikið af henni er heimtað að því, er snertir útbreiðslu guðs ríkis, og missíónarskyldan þá einnig að vera henni ljúf skylda. Vonanda, að fólk í söfnuðum vorum muni nú betr eftir öllu þessu út af reformazíónar-guðsþjónustum þeim, er það hefir tekið þátt í þetta síðastliðna haust.

## Úr bindindisprédikan

eftir ritst. „Sam."

[Ályktan kirkjuþingsins í fyrra um það, að prestar kirkjufélagsins vekti í prédikunum sínum athygli á bindindismálinu einn sérstakan sunnudag á árinu var á síðasta þingi endrtekin, þó með þeirri breyting, að hætt var við að tiltaka daginn. En jafnframt var mælzt til, að í ár væri dagrinn valinn fyrir þann tíma, er atkvæðagreiðsla fœri fram um vínsölubannið hér í Canada. Með tilliti til þessa flutti ritstjóri þessa blaðs bindindisprédikan í Fyrstu lútersku kirkju í Winnipeg sunnudaginn 25. Sept., fjórum dögum áðr en menn greiddu atkvæði um vínsölubannið. Af því að vér vorum á móti því í sumar, að kirkjuþingið fœri að skifta sér af því máli og þá einnig móti yfirlýsingunni, sem þingið gjörði út af því, þá þótti oss réttast að láta hér í blaðinu koma þann part af þessari bindindisprédikan, sem

beinlínis snertir vínsölubannið, þótt að eins væri það aukaatriði í þeirri prédikan. Textinn, sem út af var lagt, var Róm. 14, 17 („Guðs ríki er ekki matr og drykkr, heldr réttlæti og friðr og fögnuðr í heilögum anda").]

En nú liggr líka sú spurning fyrir, hvort menn eigi að styðja að því með atkvæðum sínum, — þeir allir, sem atkvæðisrétt hafa, — að í þessu landi, Canada, verði í lög leitt allsherjar vínsölubann eða ekki. Sjálfr greiði eg ekki atkvæði um nein stjórnmál, þótt eg geti haft rétt til þess, og tel mig hafa til þess gilda ástœðu. Og þess vegna væri ef til vill réttast, að eg leiddi þessa spurning algjörlega fram hjá mér. En af því að eg lét ótvírætt í ljósi á kirkjuþinginu í sumar, að eg áliti rangt að blanda þessu vínsölubannsmáli, sem eg tel reglulegt stjórnmál, saman við málefni kirkjunnar, og af því sumum auðheyrt lá við að hneykslast á þeim ummælum mínum, þá er víst réttara, að eg nú gangi ekki alveg þegjandi fram hjá þessu máli, sem flestum þykir svo stórkostlega mikið undir komið, ýmist til góðs eða ills.

Eg ætla þá fyrst að segja það, að eg með mínum bezta vilja hefi ekki enn getað komizt að neinni óyggjandi niðrstöðu um það, hvort vínsölubannið, ef það kemst á í þessu landi, muni verða þjóðfélagi þessu til góðs eða ills; en mér er þó, með þeim upplýsingum, sem eru fyrir hendi, nær að halda, að það myndi fremr verða til ills. Og ekki finnst mér, að eg þurfi neitt að fyrirverða mig fyrir þessa óvissu og ímyndan; því eg tek eftir því, að fœrustu stjórnmálamenn bæði þessa lands og margra annarra landa eru með algjörlega skiftum skoðunum um þetta efni. — Ef þér, sem atkvæðisbærir eruð, eruð komnir til gildrar og samvizkusamlegrar sannfœringar um það, að vínsölubannið horfir til blessunar fyrir land og lýð, að það myndi verða til þess að eyða drykkjuskaparsyndinni og því sorglega böli bæði líkamlegu og andlegu, sem þar með er samfara, og að það ekki myndi leiða neitt illt inn, sem vægi upp á móti hinum góðu afleiðingum, eða enn meir, þá greiðið þér auðvitað hiklaust atkvæði með. En ef þér hafið gagnstœða sannfœring og þykizt geta varið hana bæði fyrir guði og mönnum, þá jafn-sjálfsagt greiðið þér atkvæði á móti.—En það, sem mig mikillega grunar, er það, að margir þeirra, sem taka þátt í atkvæðagreiðslunni, ýmist með eða móti, bæði af voru fólki og engu síðr fólki annarra þjóðflokka, láti

miklu meir leiðast af tilfinningunni, heldr en af ljósum skynsemisrökum. Hér á í alla staði við það, sem Páll postuli segir seinast í bindindiskapítula Rómverjabréfsins: „það er allt synd, sem sem ekki sprettr af trú.“ þetta er hans seinasta orð þar í hinu kristilega bindindismáli. Orðið *trú* merkir þar einmitt rökstudda, hiklausa sannfœring. Og hann hafði áðr sagt: „Sérhver haldi sannfœring í huga sínum.“ Hann vill ekki, að menn noti sitt nautnarfrelsi nema því að eins, að þeir sé hiklaust sannfœrðir um það, að nautnin sé þeim í alla staði leyfileg. Hann vill, að menn haldi sér í bindindi, ef þeir eru í nokkrum minnsta vafa um, að þeir gjöri rétt í að neyta. Og hann myndi áreiðanlega alveg eins hafa viljað, hefði vínsölubannið komið upp á hans tíð, og almenningr hefði átt að gjöra út um það með atkvæðum sínum, að þeir, sem höfðu rétt til að greiða um það atkvæði, gengi í bindindi að því, er atkvæðagreiðsluna snertir, léti vera að nota sinn atkvæðisrétt, svo framarlega sem þeir væri í nokkrum vafa um það, hvorum megin í málinu sannleikrinn og réttlætið lægi, svo framarlega sem þeir ekki hefði gild og góð rök fyrir því, að atkvæði þeirra styddi rétt mál. því í öllum þesskonar efnum er allt það synd, sem ekki sprettr af trú.—Taki þá allir atkvæðisbærir menn þessa guðinnblásnu bending postulans til greina. Og sitji þá þar af leiðanda allir, sem ekki hafa ljósa hugmynd um þetta mál, heima á fimmtudaginn kemr, og láti vera að greiða atkvæði. það er engin sjálfsögð skylda fyrir alla að nota sinn atkvæðisrétt, — hvorki þann rétt né margan annan; — en það er áreiðanlega synd að nota atkvæðisrétt sinn upp á óvissu, ef til vill til þess að styðja rangt mál.

Eg sagðist vera í vafa um það, hvort vínsölubannið, ef það yrði í lög leitt, myndi verða landi og lýð til blessunar. það gæti orðið það, þó að hugmyndin, sem ræðr hjá formælendum þess, væri röng. því þó að vér mennirnir höfum aldrei leyfi til að gjöra rangt til þess að gott framkomi, þá getr guð leitt gott fram af illu og hefir marg-oft gjört. Eg er nú í miklu minni vafa um það, að vínsölubannshugmyndin er röng, — eins og á stendr hér í landi, heldr en um það, hvernig hún kynni að leiðast út, ef hún yrði ofan á. þar get eg spurt heilaga ritning til ráðs. Og eg fæ þar svar, þegar eg athuga, hvernig Jesús Kristr og postularnir og kristnir menn yfir höfuð að tala í fornkirkjunni komu fram

andspænis mesta mannfélagsböli þeirrar tíðar — þrælahaldinu. Stórt er bölið, sem nautn áfengra drykkja er samfara, hræðilega stórt. En enn þá miklu stórkostlegra og hræðilegra var böl þrælahaldsins, — var og hefir æfinlega verið, þar sem það hefir átt sér stað. Og hvernig kom nú kristindómrinn til forna fram andspænis því makalausa heimsböli? Lesið þó ekki sé meira í nýja testamentinu en hið stutta bréf Páls postula til Fílemons til þess að fá svar upp á þá spurning. það nægir. Fílemon er kristinn tiginn maðr, en jafnframt þrælahaldsmaðr. Einn þrællinn hans, Onesímus, strauk frá honum, langt burt frá heimili sínu, og komst til Rómaborgar, þar sem Páll dvaldi þá í fangelsi, komst í kynni við hann og tók hjá honum kristna trú. Hvað gjörir svo postulinn við hann? Hann sendir hann kristnaðan frá sér alla leið austur í Asíu til Fílemons, hins fyrrveranda húsbónda þrælsins, skilar honum þessari hans lögmætu eign, en biðr hann að taka við honum, þótt hann enn sé þrællinn hans, ekki eins og þræli, heldr eins og bróður. Og þrællinn fer, gefr sig aftr með fúsum kristnum huga í þrælsstöðuna. — Svona leysir Páll postuli þrælahaldsspursmálið. Svona leysir kristindómrinn það. þrælahaldið er ekki aftekið með neinu boði eða lagafyrirmælum úr kristindómsins átt. En samt eyðir kristindómrinn þrældómsbölinu og þrælahaldinu smámsaman eins fyrir því,— eyðir því á þann hátt, að kristilegr kærleikr út af trúnni á Jesúm Krist ryðr sér til rúms í mannfélaginu. þrælarnir kristnast; þrælaeigendrnir kristnast. þá hlýtr þetta böl þrældómsins að hverfa og þrælahald um leið að verða að engu. Og þannig dó það út, víðasthvar nálega ómerkjanlega í heiminum. — Á sama hátt á drykkjuskaparböl landsins og landanna vafalaust að deyja út, ekki fyrir rétt hins sterkara eða neitt stjórnarboð, heldr á sannfœringarinnar, trúarinnar og kærleikans vegi í Jesú nafni.

## Ný guðsorðabók handa Íslendingum.

Snemma á þessu ári kom út í Reykjavík ný guðsorðabók, er nefnist *Vegrinn til Krists* (9—10 arkir í smáu 8 blaða broti). Bókin er frumrituð á ensku af konu einni í flokki aðventista, frú E. G. White í Bandaríkjunum. En hinn norski trúboði að-

ventista á Íslandi, hr. D. Östlund, hefir með styrk trúarbræðra sinna gefið bók þessa út í íslenzkri þýðing og lætr á Íslandi selja hana í laglegu léreftsbandi fyrir kr. 1.50.

Bókinni er skift í þrettán þætti með þessum fyrirsögnum: „Kærleikr guðs til mannanna“ (inngangr), „Þörf syndarans á Kristi“, „Aftrhvarf“, „Syndajátning“, „Að fela sig guði“, „Trú mannsins — viðtökurnar hjá guði“, „Einkennin á lærisveini Krists“, „Að verða samgróinn Kristi“, „Kristilegt líferni“, „Þekking á guði“, „Blessan bœnarinnar“, „Hvernig eigum vér að fara með efasemdirnar?“, „Fögnuðr í drottni“.

Konan, sem ritað hefir þessa bók, heyrir til þeirri deild aðventista, er nefnist „sjöunda dags aðventistar“, og hefir hún ritað eigi all-fáar bœkr til vitnisburðar um kristindóminn eftir því, sem hún og hennar fólk hafa hann skilið, og ber þar mikið á trúarlegum vitrunum eða nýjum opinberunum eftir því, sem dr. H. K. Carroll, ritstjóra blaðsins „The Independent“ í New York segist frá. En dr. Carroll er sá maðr, sem bezt veit deili á sérkennum hinna ýmsu kristnu trúarflokka í Bandaríkjunum og allra manna kunnugastr er þar að lútandi bókmenntum.

Það hefir verið tekið fram af blöðunum á Íslandi, sem minnzt hafa á bók þessa, að þar beri ekkert á lærdómum þeim, sem aðgreina aðventista frá öðrum kristnum trúardeildum. Og það er í rauninni satt. Aðaleinkenni alla aðventista er trú þeirra á það, að Kristr sé mjög bráðlega væntanlegr aftr hingað á jörðina í sýnilegri mynd, og leggja þeir allir mjög mikla áherzlu á það trúaratriði. Þetta kemr alls ekki fram í bókinni. Ekki heldr sú sérstaka kenning „sjöunda dags aðventistanna“, sem aðgreinir þann flokk frá öðrum aðventistaflokkum, að kristnir menn eigi eins og Ísraelsmenn til forna að halda laugardaginn heilagan. Og ekki heldr sú kenning, sem þeir og fleiri aðventistar halda fram, að ódauðlegleiki sálarinnar sé að eins til fyrir þá, sem í lifandi trú ganga Jesú Kristi á hönd hér á náðartímanum. Þá hafa aðventistar það og sameiginlegt með baptistum, að þeir hafna skírn ungbarna. En ekki er heldr neitt hreift við því í bók þessari. Hinsvegar ber þó bókin það með sér, að hún er ekki upprunnin í lútersku kirkjunni. Og kemr það meðal annars fram í því, að sakramentin, skírnin og kvöldmáltíðin, eru þar hvergi nefnd á nafn. Því frá lútersku sjónar-

miði myndi allir telja alveg sjálfsagt, að þau dýrmætu náðarmeðul væri fyllilega tekin til greina í þeim bókum öllum, sem ritaðar eru í þeim tilgangi að sýna mönnum veginn til Krists.

Í upphafi kaflans um „að verða samgróinn Kristi“ er ofr lítið drepið á endrfœðinguna, og það lítið, sem þar er sagt um það mál, er rétt; en þar vantar það, að minnzt sé á skírnina sem laug endrfœðingarinnar, sem auðvitað hefði verið gjört, ef maðr með algjörlega biblíulegri skoðan á því máli hefði ritað bókina. Kenning bókarinnar um aftrhvarfið er og ekki alveg rétt. Þannig t. a. m. þessi orð á 32. bls.: „Satt er það, að aftrhvarfið verðr að fara á undan fyrirgefningunni, því að þau hjörtu ein, er iðrandi eru og sundrkramin, finna þörfina á frelsaranum.“ Hér sýnist orðið *aftrhvarf* eiga að merkja nákvæmlega hið sama sem iðrunartilfinningin út af syndinni — hvorki meira né minna. En þetta kemr í bága við einkenninguna á aftrhvarfinu, sem skömmu áðr er gefin í sama kaflanum (á bls. 28), þar sem tekið er fram, að aftrhvarfið feli í sér hryggð yfir syndinni og f r á h v a r f  f r á  h e n n i. Í kaflanum „um blessan bœnarinnar“ er að eins lauslega drepið á b œ n i n a  í  J e s ú  n a f n i (á bls. 125). Þar hefði þurft að gjöra miklu betr grein fyrir því, hvað það er að biðja í Jesú nafni. En sá ófullkomleiki, er þar kemr fram, á vissulega eigi síðr heima í mörgum íslenzkum guðsorðabókum.

Um sælu hins kristilega trúarlífs er mikið talað og að flestu vel. Seinasti kafli bókarinnar, „Fögnuðr í drottni“, hljóðar allr um það mál. En aftr á móti virðist oss langt um of lítið gjört úr sársauka trúarlífsins. Og því atriði má þó sannarlega aldrei gleyma á leiðinni til Krists. Það er og einkennilegt fyrir bók þessa, að allsstaðar sýnist út frá því vera gengið, að menn sé ekki og geti ekki verið komnir í lífssamband við Jesúm Krist meðan þeir enn eru á barnsaldri. Og stendr sá eiginlegleiki bókarinnar skiljanlega í sambandi við hinn ófullkomna skilning höfundarins á skírninni og endrfœðingunni.

Tilætlanin er, að framsetningin öll sé samvizkusamlega byggð á guðs orði heilagrar ritningar. Enda úir þar og grúir af ritningargreinum. En sumsstaðar er þeim miðr heppilega komið fyrir og öfugr skilningr í þær lagðr. Þannig á bls. 77, þar sem svo stendr: „Jesús sagði um sjálfan sig áðr en hann kom til jarðríkis: ‚Mig langar til að gjöra þinn vilja, minn guð, og þitt

lögmál er innst í mínu hjarta'." þessi orð, sem Jesú eru hér eignuð, standa í 40. Davíðs sálmi eins og líka frá er skýrt neðanmáls. Sálmr þessi hefir að vísu af sumum verið talinn meðal hinna messíönsku sálma, er svo eru nefndir, en efni sálmsins í heild sinni talar á móti þeirri ímyndan, og þó einkum þessi yfirlýsing í 12. versinu: „Mínar syndir hópast í kring um mig, svo eg get ekki séð út yfir. þær eru fleiri en hárin á mínu höfði; og mitt hjarta hefir yfirgefið mig." — Á 84. bls. er vitnað til þessara orða Krists í fjallræðunni: „Skoðið akrsins liljugrös, hvernig þau vaxa." Og er það gjört til skýringar því máli, að að trúarlíf kristins manns sé sama vaxtarlögmáli háð eins og lífið í náttúrunni. En þegar frelsarinn kemr með þau fögru orð, þá er hann um allt annað að tala, nefnilega um það, hve dásamlega guð beri umhyggju fyrir hverjum smæsta og lítilmótlegasta einstaklingi í náttúruríkinu, til þess að sannfœra mennina, sína lærisveina, um það, hve óviðrkvæmilegt, heimskulegt og syndsamlegt það sé fyrir þá, að lifa í áhyggjum út af sínum líkamsþörfum, hve heilög og sjálfsögð skylda það ætti að vera fyrir þá að reiða sig á föðurforsjón hans að því, er snertir hið jarðneska líf þeirra. — Hitt er auðvitað rétt og satt, sem bókin tekr fram, að hið kristilega trúarlíf er háð vaxtarlögmálinu, en það er villanda, að taka þessi orð Jesú, slitin út úr hinu rétta sambandi þeirra í fjallrœðunni, því máli til sönnunar. — Svipað kemr fyrir á bls. 91, þar sem tekið er fram, að lærisveinar Jesú til forna hafi verið menn, sem sömu kjörum hafi átt að sæta og vér, og þessu til staðfestingar neðanmáls vitnað í Jakobs bréf 5, 17. því á þeim stað er postulinn að tala um allt annað, nefnilega um kraft og nauðsyn trúaðrar bœnar, og í því sambandi minnt á Elías, sem hafi verið oss líkr að breyskleika, en hafi þó verið bœnheyrðr af guði, þegar hann bað fyrst um það, að ekki rigndi á jörðina, og síðan, hálfu fjórða ári síðar, að regn félli jörðinni til frjóvgunar.

En þrátt fyrir allt þetta er margt vel sagt í bókinni og lestr hennar getr vissulega orðið fólki til all-mikillar kristilegrar uppbyggingar.

Snemma í kaflanum um „þörf syndarans á Kristi" stendr þetta, sem vert er sérstaklega á að benda sem mjög mikilsverðan sannleik:

„Syndari gæti ekki verið farsæll í návist guðs; hann myndi fælast frá samfélagi við hinar helgu verur. Í himninum myndi hann engrar gleði geta notið, þótt honum væri leyft að koma þangað. Hinn sjálfselskulausi kærleikr, sem þar drottnar, þar sem hinn eilífi kærleikr endrspeglast í hverju einasta hjarta, myndi ekki vekja neinn endrhljóm í hjarta hans. Hugsanir hans, hugðmál og hvatir myndi verða allt öðruvísi en þær, sem hinir syndlausu himinbúar láta leiðast af. Hann myndi verða sem hjáróma rödd í hinni himnesku samhljóðan. Himininn yrði kvalastaðr fyrir hann. Hann myndi leitast við að fela sig fyrir honum, sem er ljós himinsins og allr hinn himneski fögnuðr streymir út frá. Það er ekkert gjörræðisbann frá guðs hálfu, sem útilokar hina óguðlegu frá himnaríki; þeir eru útilokaðir af því að þeir eru óhœfir til þess að vera í þeim félagsskap, sem þar er. Fyrir þá myndi guðs dýrð verða eyðandi eldr."

Eins mætti benda á það, sem stendr á fyrstu blaðsíðum kaflans um „þekking á guði", þar sem sýnt er fram á, hvernig guð talar til mannanna gegnum náttúruna, og athygli að því leidd, hvernig Jesús með kenning sinni hjálpar mönnum til þess að lesa sannindi sáluhjálparinnar út úr náttúrunnar opinberunarbók.

En íslenzka þýðingin á bókinni er með talsverðum göllum. Málsgreinaskipan er sumsstaðar all-fjarri íslenzkri hugsan og jafnvel óviðkunnanleg orð, leiðinleg ný-yrði, ekki svo mjög fá, eins og t. a. m. „fyrirdœmi" (sama sem eftirdœmi eða fyrirmynd), „kappkostun", „syndugleiki", „meðhyggð", „hugðmál". — Þolfall af nafninu Jesús ætti að vera *Jesúm*, en ekki *Jesú*, sem er eignarfall og þágufall. — En einna óíslenzkulegast af öllu er það, hve oft er talað í ókominni tíð, þar sem nútíð ætti að vera eftir eðlilegri hugsan hjá oss. Þannig á bls. 96: „Kærleikr Krists *mun lýsa* sér", og: „Hann *mun vekja* elsku"; á bls. 122: „Þeir, sem leita í raun og veru samfélagsins við guð, *munu sœkja* bœnarmót", og: „Þeir *munu láta* í ljósi alvarlega löngun"; á bls. 124: „Þeir, sem hafa opnað hjörtu sín......, *munu ganga* í helgara lofti", og: „Þeir *munu* sífellt *hafa* samneyti við himininn". Og á bls. 125 kemr jafnvel ein ritningargrein afbökuð á sama hátt: „Eg hefi útvalið yðr......, svo að hvers þér biðjið föðurinn í mínu nafni, það *mun* hann *veita* yðr"—í staðinn fyrir: „— — það veiti hann yðr", eins og stendr í nýja testamentinu

íslenzka. — Á annan hátt er á bls. 23 ruglað tveimr ritningargreinum frá Páli postula, og sá ruglingr er jafnvel enn verri. þar stendr svo í bókinni: „Eg samsinni lögmálinu að það sé rétt“, og: „þessvegna er að vísu lögmálið heilagt og réttvíst og gott“. En í nýja testamentinu íslenzka hljóða greinir þessar þannig: „[En ef eg gjöri það, sem eg ekki vil, þá] samsinni eg lögmálinu, að það sé gott“, og: „þess vegna er að vísu lögmálið heilagt, og boðorðið heilagt og réttvíst og gott“. Róm. 7, 16. 12. Sem dœmi upp á flókna og óeðlilega málsgreinarskipan í bókinni látum vér nœgja að benda á þetta á bls. 117: „Hvað skyldu englar guðs á himnum hugsa um oss vesæla (fyrir *vesala*), bjargþrota menn, sem eru undirorpnir allskonar freistingum, þegar guðs eilífa kærleikshjarta aumkast yfir þá og hann er búinn til þess að gefa þeim meira en þeir geta beðið um eða hugsað, er þeir samt biðja svo lítt og eru svo trúarlitlir sem þeir eru.“

Bókin send af útgefanda til Vestrheims kostar 60 cts.

---

## Til Roseau.

Eftir séra Friðrik J. Bergmann.

---

Eins og getið er um í September-blaði „Sam.“ fór eg í sumar snögga ferð til ísl. nýlendunnar í Roseau County, Minnesota. Eg fór keyrandi alla leið. Mér leizt miklu betr á mig en eg hafði búizt við. Fólkinu sýndist öllu líða einstaklega vel, og allir voru hjartanlega ánœgðir yfir að vera komnir þangað. Húsakynni máttu heita ágæt, eftir því, sem um er að gjöra meðal frumbyggja, og miklu betri en fyrstu hús manna voru hér í Dakota. Skólahúsum hefir verið komið upp nýlega, svo nú getr œskulýðrinn notið sömu frœðslu og annarsstaðar í eldri byggðarlögum. Félagsskaprinn er nú fremr lítill enn þá. Nýlendan á ekkert samkomuhús á hentugum stað. Sunnudagsskóli hefir verið byrjaðr í nyrðra enda byggðarinnar, og er vonanda, að áframhald verði á honum. þeir Jón Austmann og Matúsalem Petersen hafa fengizt mest við kennsluna, og virtust allir mjög ánœgðir yfir því. þar er nokkuð af ágætu safnaðarfólki, en engin tilraun hefir verið gjörð til að mynda söfnuð, og fór eg ekki heldr fram á það að svo stöddu; því œði-margt af fólkinu myndi ekki fást til að vera með, en byggðin lítil og fámenn, þó

allt sé talið. En mjög þótti hinu kirkjulega hugsanda fólki vænt um, að kirkjufélagið hefir svo vel munað eftir því, og var mjög þakklátt fyrir það, sem gjört hefir verið. Eg efast ekki um, að væri lipr og laglegr íslenzkr prestr þarna búsettr, myndi hann með tímanum geta unnið flest af þessu ísl. fólki í söfnuð með kærleika og kristilegri þolinmœði. En það er lakast, að byggðin getr ekki fœrzt út, því nú er allt land upptekið hringinn í kring. — Eg flutti þar eina guðsþjónustu, og var hún ekki sem allra bezt sótt af því að heyskapr var byrjaðr, og á eftir talaði eg við þau ungmenni, sem þar voru stödd. Aukaverk gjörði eg engin, því bæði höfðu þau verið unnin af hr. Runólfi Marteinssyni, sem var þar skömmu fyrir kirkjuþing, og svo eru þar norskir prestar allt í kring, sem farið er til, þegar á liggr.



## Enn einn frjáls kirkjumálafundr

auk þeirra, sem um er getið í síðasta blaði „Sam.", var haldinn á Íslandi í sumar. Prestarnir í Árnessýslu flestir höfðu með sér fund 1. Sept. að Stóranúpi hjá séra V. Briem, prófasti þess héraðs. Helztu málin, sem menn rœddu þar, voru: *staða prestsins utan kirkju og innan*, og hófust þær umrœður með fyrirlestri, er séra Valdemar flutti; *prédikan og prédikunaraðferð*, og hélt séra Ólafr Ólafsson þar inngangsrœðu; *uppfrœðsla barna*,—en það mál leiddi séra Ólafr Helgason inn á fundinn með rœðu.

„Ísafold" segir: „Jafnframt því, sem stöðugt virðist heldr að dofna yfir hinum lögskipuðu héraðsfundum, eru prestarnir sjálfir farnir að gangast fyrir fundarhöldum til að rœða sín á milli kirkju- og trúarmál." Myndi ekki þetta benda til þess, að trúin á ríkiskirkjufyrirkomulagið er að bila á Íslandi, en sannfœring að glœðast undir niðri í hugum manna um það, að kirkjan eigi að vera frjáls og getið verið það líka á Íslandi?



— Hr. Runólfr Marteinsson, sem á síðastliðnu sumri vann í nafni kirkjufélags vors að missíónarstarfi í ýmsum byggðum Íslendinga hér nyrðra, prédikar nú í vetr annanhvorn sunnudag fyrir ensk-lúterskum söfnuði í bœnum Racine í Wisconsin. Og er það aukaverk hans þetta síðasta námsár hans á prestaskólanum í Chicago.

# Skýrsla

um fólkstal, eignir, sunnudagsskólahald o. fl. í söfnuðum kirkjufélagsins í miðjum Júní 1898.

| | SÖFNUDIR. | FÓLKSTAL OG EIGNIR. Fermdir | Ófermdir | Samtals | Altarisg. | K.kjueign | Skuld | SUNNUDAGSSKÓLINN. Sk.dagar | Kennarar | Innritaðir | Fermdir | Ófermdir | Flestir | Fæstir | Meðaltal |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| 1 | Marshall-söfnuðr. ...... | 32 | 25 | 57 | 24 | $1500 | $ | 47 | 3 | 20 | 6 | 14 | 20 | 10 | 16 |
| 2 | St. Páls-söfn............ | 140 | 72 | 212 | 130 | 3400 | 100 | 51 | 12 | 134 | 26 | 108 | 83 | 42 | 62 |
| 3 | Lincoln-söfn............. | 130 | 95 | 225 | 84 | 300 | | 22 | 4 | 70 | 16 | 54 | 70 | 26 | 48 |
| 4 | Vestrheimssöfn. ......... | 65 | 34 | 99 | 24 | 1400 | | 20 | 3 | 12 | | 12 | 10 | 6 | 8 |
| 5 | Garðar-söfn. ............ | 353 | 259 | 612 | 204 | 3800 | | 22 | 5 | 65 | 23 | 42 | 60 | 15 | 30 |
| 6 | Þingvallasöfn., N.-D.... | 127 | 99 | 226 | 76 | 2500 | | 22 | 5 | 74 | 12 | 62 | 48 | 6 | 29 |
| 7 | Víkrsöfn.... ............ | 184 | 125 | 309 | 96 | 2500 | 300 | 16 | 2 | 55 | 14 | 41 | 43 | 8 | 25 |
| 8 | Fjallasöfn. 1] ..... ...... | 71 | 30 | 101 | 36 | 800 | | | | | | | | | |
| 9 | Hallson-söfn....... ...... | 112 | 58 | 170 | 57 | 1800 | 500 | 20 | 2 | 20 | | 20 | 18 | 8 | 15 |
| 10 | Pétrssöfn. 2] .. ....... ...... | 123 | 98 | 221 | 70 | 1500 | 450 | 74 | 4 | 68 | 9 | 59 | 48 | 20 | 37 |
| 11 | Vídalínssöfn. 2] 3] ........ | 298 | 188 | 486 | 144 | 1200 | | 50 | 7 | 105 | 28 | 77 | 69 | 16 | 43 |
| 12 | Grafton-söfn....... ...... | 44 | 36 | 80 | 18 | 1000 | 60 | 34 | 3 | 28 | 5 | 23 | 23 | 5 | 16 |
| 13 | Pembina-söfn............. | 119 | 65 | 184 | 59 | 1500 | | 49 | 6 | 50 | 6 | 44 | 41 | 17 | 32 |
| 14 | Fyrsti lút. söfn. í Wpeg.. | 500 | 250 | 750 | 351 | 5000 | 350 | 52 | 21 | 225 | 52 | 170 | 176 | 115 | 150 |
| 15 | Fríkirkjusöfn...... .. ... | 148 | 73 | 221 } | 200 | 3000 | | 44 | 12 | 256 | 126 | 130 | 170 | 56 | 112 |
| 16 | Frelsissöfn............. | 253 | 184 | 437 } | | | | | | | | | | | |
| 17 | Brandon-söfn............. | 39 | 38 | 77 | 8 | 700 | 39 | 44 | 4 | 30 | 4 | 26 | 24 | 10 | 16 |
| 18 | Þingvallanýlendu-söfn. 2] | 76 | 86 | 162 | 48 | 400 | | 18 | 4 | 29 | 4 | 25 | 28 | 13 | 21 |
| 19 | Selkirk-söfn. ............ | 56 | 40 | 96 | 8 | 1000 | | 40 | 3 | 60 | 8 | 52 | 56 | 27 | 42 |
| 20 | Víðinessöfn. 4] ........... | 35 | 30 | 65 | | | | | | | | | | | |
| 21 | Árnessöfn 4]............. | 31 | 27 | 58 | | | | | | | | | | | |
| 22 | Brœðrasöfn...... ........ | 96 | 49 | 145 | 40 | | | 28 | 3 | 59 | 20 | 39 | 39 | 7 | 23 |
| 23 | Fljótshlíðarsöfn. 4]. ...... | 72 | 43 | 115 | | | | | | | | | | | |
| 24 | Mikleyjarsöfn. ......... | 28 | 16 | 44 | 11 | 800 | | | | | | | | | |
| 25 | Melanktons-söfn ......... | 70 | 66 | 136 | 30 | | | | | | | | | | |
| | Alls | 3202 | 2086 | 5288 | 1718 | $34100 | 1799 | | 103 | 1360 | 359 | 1001 | 1036 | 427 | 725 |

1] Sunnudagsskóli er haldinn, þegar guðsþjónusta fer fram í söfnuðinum, sem er 8—9 sinnum á ári. Ekki eru aðrir kennarar á honum en prestrinn. Tala barnanna frá 8—15. 2] Skólinn á tveim stöðum. Skýrslur sameinaðar. 3] Auk þeirra meðlima, sem hér eru taldir, tilheyra söfnuðinum 46 manns, er ekki dvelja innan takmarka safnaðarins. 4] Engin skýrsla.

Skýrsla þessi nær yfir árið frá miðjum Júní 1897 til miðs Júní 1898, nema skýrslan frá Fyrsta lúterska söfnuði í Winnipeg að því, er snertir sunnudagsskólann. Sá partr þeirrar skýrslu nær yfir almanaksárið 1897 (frá nýári 1897 til nýárs 1898). Skýrslur frá prestum kirkjufélagsins bera með sér, að á árinu hafa í söfnuðunum verið skírð 257 börn, fermd

254 ungmenni, gift 51 hjón og greftrað 107 manns. Auk þess hafa prestarnir á missíónar-ferðum sínum skírt 60 börn, fermt 10 ungmenni, gift 2 hjón og tekið 63 til altaris. Bandalögin tilheyrandi kirkjufélaginu eru 7; hefir eitt þeirra (í söfnuðunum í Argyle) myndazt á þessu ári. Skuldlausar eignir safnaðanna eru nú $32,381 og er það $2,681 meira en í fyrra. Hafa þó all-miklar umbœtr verið gjörðar á kirkjunum. Skýrslur sunnudagsskólanna bera með sér, að tala kennara og nemenda hefir að mun aukizt á árinu. Fleiri altarisgöngur hafa verið þetta ár en að undanförnu, 648 fleiri en í fyrra.

Hinar sameiginlegu eignir allra safnaðanna, skólasjóðrinn, bókasafnið og ,,Sameiningin", eru vitanlega ekki taldar með í skýrslunni hér að framan.

Minneota, Minn., 26. Október, 1898.
BJÖRN B. JÓNSSON,
skrifari kirkjufélagsins.

---

Séra Jónas A. Sigurðsson kom úr Íslands-ferð sinni á þeim tíma, sem búizt var við. Hann sté í land í New York 16. Okt. Á leiðinni vestr um land kom hann við í Minneota og dvaldi þar, hjá séra Birni B. Jónssyni, tvo daga, og náði svo heim til sín til Akra hinn 25. — Í Reykjavíkrkirkju prédikaði hann tvisvar á þeim stutta tíma, sem hann dvaldi þar í bœ áðr en hann sté á skip alfarinn frá Íslandi. Einnig talaði hann þar á bindindissamkomu Good Templara. Og má á blöðunum að heiman sjá, að Reykvíkingum hefir mjög mikið fundizt til um þann boðskap, sem hann flutti þeim, bæði að efni og ytra búningi, og að dvöl hans þar hefir orðið mörgum til fagnaðar. Einn mikilsvirtr maðr þar í bœnum ritar oss meðal annars: „þegar vér höfðum heyrt hann (séra Jónas) einu sinni, langaði oss í meira. Já, vér hefðum helzt kyrrsett hann hér heima, því vér þurfum slíkra prédikara við. Eg vildi að eins óska, að Ísland ætti sem flesta kennimenn honum líka."

---

— Í greininni um bandalagsfundinn í síðasta blaði „Sam." hefir nafn eins erindsrekans á þeim fundi fallið burt í ógáti: hr. *Gunnars Jóhannssonar* í Pembina. En sú bót er þar í máli, að nafn hans kemr þó fram fyrir framan skýrsluna frá bandalagi þess safnaðar í sömu greininni.

---

— Hjá ritstjóra „Sam." fást nú íslenzkar biblíur og nýja testament (frá brezka biblíufélaginu). Biblían kostar $1.45, nýja testamentið 60 cents.

## Nokkur blessunaratriði,

sem vér, lúterskir menn, eigum reformazíòninni að þakka.

1. Heilög ritning með hinum òþrjòtanda auð guðs orðs liggr fyrir oss opin. Og vér vitum og játum, að þar er hin einasta áreiðanlega uppspretta allrar sannrar trúarþekkingar, algild trúar- og lífernisregla. Þar sem kaþòlska kirkjan aftr á móti heldr því fram, að biblían út af fyrir sig sé í þessu tilliti ófullnœgjandi, dugi mönnum alls ekki nema við hana sé bœtt erfikenningum þeirrar kirkju, úrskurðum páfanna og samþykktum hinna kaþólsku kirkjuþinga, og sé ritningin að eins lesin í því ljòsi, útþýdd samkvæmt þeim leiðarvísi. Slík fyrirmæli loka biblíunni fyrir leikmönnum, og að miklu leyti einnig fyrir klerkalýðnum.

2. Vér vitum og játum, að maðrinn réttlætist að eins fyrir trúna á Jesúm Krist, eða með öðrum orðum : að sáluhjálp vor er eingöngu komin undir því, sem frelsarinn hefir fyrir oss gjört með sínu fórnarlífi og friðþægingardauða. Þar sem kaþólska kirkjan hinsvegar heldr því fram, að til réttlætingar útheimtist ekki að eins trú, heldr líka svo og svo mikið af gòðverkum frá mannsins hálfu, sem að einu leyti rýrir endrlausnarverk Jesú og í annan stað, auk margs annars ills, leiðir alvörugefnar syndþjáðar sálir í efa og óvissu um það, hvort þær nokkurn tíma geti hòlpnar orðið. Að eins í ljòsi lærdòmsins um réttlætinguna í Jesú Kristi verðr heilög ritning lesin rétt.

3. Vér vitum og játum, að allir kristnir menn eru til þess kvaddir af drottni að vera hans erindsrekar, kennimenn, prestar. Vér trúum á hið almenna prestsdœmi kristinna manna. Þar sem hinsvegar í kaþòlsku kirkjunni að eins klerkarnir koma í þessu tilliti til greina. Leikmenn því hjá oss — þvert á mòti því, sem er hjá páfamönnum — hafandi bæði rétt og skyldu til þess eigi að eins að lesa og rannsaka ritninguna, heldr líka til þess að taka lifanda þátt í stjórn og starfsemi kirkjunnar.

4. Vér trúum á fullkomið samvizkufrelsi fyrir oss og alla aðra.

5. Vér trúum því, að kirkjan hafi enga guðlega köllun og ekkert guðlegt leyfi til að taka fram fyrir hendrnar á hinni veraldlegu valdstjòrn, en þá líka því, að valdstjòrnin hafi engan rétt til þess að ráða yfir kirkjunni á því starfsvæði, sem henni er afmarkað af drottni. Af þessu leiðir, að vér hljótum að sjálfsögðu að vera með algjörum stjórnlegum aðskilnaði ríkis og kirkju, sem vér þá einnig megum þakka guði fyrir að vér njótum í þessu landi.

6. Alþýðumenntan þá alla, sem nú er ráðandi í heiminum, eigum vér reformazíòninni að þakka.

7. Hið sanna verðmæti sakramentanna, skírnarinnar og kvöldmáltíðarinnar, kemr hvergi fullkomlega fram nema í lútersku kirkjunni, það er að segja : þegar það, sem um þau er þar kennt samkvæmt guðs orði, er af fòlki tekið til greina. Allra kristinna manna fúsastir ætti þá lúterskir menn að vera til að ganga til altaris.

8. Hvergi nema í lútersku kirkjunni er réttr, sann-evangeliskr, skilningr lagðr í hið guðlega boðorð um sabbatshaldið.



— Ramsey prestr í Minneapolis, sem í nafni General Councils kom á kirkjuþing vort í sumar, ritaði laglega grein um þessa ferð sína hingað norðr í „The Lutheran" skömmu síðar.

— Séra Jón J. Clemens, prestr Argyle-safnaðanna, fór missíónarferð til Brandon í Ágúst. Í kirkju Brandon-safnaðarins prédikaði hann tvisvar sunnud. hinn 21. í þeim mánuði og skírði þá tvö börn og tók 15 manns til altaris. — Fyrir atvik hefir dregizt að geta þessa í „Sam." þangað til nú.

— Um ferð Vilhjálms Þýzkalandskeisara til Jerúsalem hefir mikið verið talað í síðustu tíð. Aðalerindi hans þangað var að vera viðstaddr við vígslu hinnar miklu þýzk-lútersku kirkju þar í hinni helgu borg. Vígslan fór fram 31. Okt., reformazíónardaginn. Hornsteinn musteris þessa var lagðr sama dag árið 1893.

— *Luther League* Bandaríkjanna hélt þriðju almennu árssamkomu sína í New York nálægt miðjum Októbermánuði. — Félagið er óðum að fœra sig út og vinnr víst víða gott og gagnlegt verk fyrir kirkjuna. Allmargar raddir heyrast þó frá lúterskum mönnum, er telja þessa bandalagshreifing mjög varúðarverða. Jafnvel í General Council eru eigi all-fáir á móti. Aðallega eru það Þjóðverjar, sem þannig líta á hreifinguna.

— Í bandalagi 1. lút. kirkju í W.peg hefir það tíðkazt nú um nokkra mánuði, að sögð hefir verið saga af meginatburðum í stjórnmálum stórveldanna, þeim er sýnilega hafa allsherjar heimsþýðing, jafnóðum og þeir atburðir hafa verið að gjörast. Þetta hefir þó að eins verið gjört á skemmtifundum bandalagsins. Hr. Magnús Pálsson hefir tekið þetta hlutverk að sér bandalagsmönnum bæði eldri og yngri til mikillar ánœgju og væntanlega til uppbyggingar.

— „The Lutheran", aðalmálgagn General Council-manna, hefir nýlega komið með ritgjörð um Ísland eftir dr. Sculler, endrprentaða upp úr „The United Presbyterian". Þar er mjög hlýlega talað um Íslendinga, og sumt vel sagt. En all-óáreiðanlegt er sumt. Þar segir t. a. m., að nálega hver kirkja á Íslandi hafi bókasafn til útláns. Í fáum löndum, stendr þar enn fremr, er eins auðvelt að lifa með litilli vinnu eins og á Íslandi. Enn fremr, að biskupsdœmi Jóns Arasonar hafi verið afnumið, þá er hann var líflátinn. Og loks þetta, sem öllu öðru er broslegra: „Það (Ísland) er einasti blettrinn í prótestantiska heiminum öllum, þar sem allr landslýðrinn er í einum anda."



„SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrirfram. —Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Friðrik J. Bergmann, Jón A. Blöndal, Björn B. Jónsson og Jónas A. Sigurðsson.

PRENTSMIDJA LÖGBERGS — WINNIPEG.